

# Armañs Saga

## j. Cap.

Maður het Dalmann, hann ætte bigd þar er heita Dalmañs dalir, þeir liggia i millum Sandwijcur oc Balagards syðri, Dalmann var Vinr oc Fooſtbrooðir Dumbs Koongs er rieði firi Hafsbotnum, og með hans fulltinge oc annara Vina sinna friðade Dumbr Koongr Ryce sitt, enn æðr gulðu feðr hans Skatt til Geyrudargarda. Dalmann feck Kono þeirrar er Svafurlaug het, med tilstilli Dumbs Koongs, hon var doottir Lunds wr Lunds Eyo, su ey liggr i Hafsbotnum, Lundr var Brooðir Dumbs ad faðerne. Svafrlavg var fryd Kona synum, oc Scorungr micill, oc unni hav Dalmann vel, Dalmann var micill maðr vexti oc ramr at afli, spacr oc fridsamr, oc Micer i scapi, þav Dalmann og Svafurlavg ættu tvo sono; het hinn Elldre Grámann, enn hinn yngre Armann, Bæder voru þeir brædr efnilegir menn oc vel at sier um iþroottir oc atgeorvi, þo var Grámann lycari i mooðrætt, hann var lioos i andlite oc græjarpur æ Hær; hann var i grækubli oc Hott upp af, oc gyrdt ur Svardreipe. Armann var ravdfreknoottur i andlite með ravdgulst hær, er foor i loccom alt at bellti, hann var i blækufli oc hottinn af sama. Spacr oc hoglindr sem faðer hans, Þeir Bræðr scipto með sier starfa; Var Grámann at veiðom oc reri til fiskiar enn Armann giætte Savða oc Uxa, þvi Dalmann var avðigur at gæangande fe; oc foor so fram um hryð, þar til þeir bræðr ero fullvaxner. Dumbr Koongr ætte mikit fe i Uxom oc Kiarn havfrom, oc het sæ Hrócur er vardveitte, hann var sterer oc illr viðureignar, enn þo kiær Koongi, Þat var at einu hoste, at hann var vaunt hundrat Kiarnhafra. Hróc[illegible]

aþi haþranna oc þann ecci, Dumbr sagþi a reiþi sijna ef hann finde ei Hrócr leitar nw vijþa þar honum lyclegt þotti til vera, hann kemur til Dalmanns oc lysir hofronum, enn Boonþi qvaþ þa þar ei komid hava, oc man illa leitat i aatthogum. Hrócr mælti hitt seiger mier hugr um at her muni nidrkomnir, oc eru þeir menn jaþnann ei ulijkir til Raans oc Þieofnaðar er bwa i afdavlom, Dalmann seiger hann annarstaþar meiga at Þyse leita oc biþr hann sem fliootaz a brott fara, Hrócur spa-rar þa ey dylgior oc illyrde, og fer af staþ sijþann, Scavmo syþar kemr Grámann heim, oc segir, Mooþir hanns honom fra umrædum Hrócs, hann braust ei mioc viþ, enn scipti þa mioc litum, Fader hans baþ hann lata kyrt vera, oc qvad lygar jaþngnn ganga tilbaka, þa er þat sannara uppkiæmi, Grámann giegndi engu, oc scomo sijdar vard Dalmann var vid, at Grámann var ei heima, þikist hann vita at hann muni hava giort Hróc eptersør, byst hann þa sem fliootaz af-staþ, oc vill ei þyri hvern mun sakir vinattu viþ Dumb Koong at fun-dom þeirra bere samann, hann gengr um hriiþ, þar til er hann finnur Grámann, sat hann þa oc knijtti reimar sijnar, Enn scamt þaþann liggr Hrócur oc er davdr, var hann brotinn a bac aptr. Dalmann qvaþ honom illa tekist hava, at geora a moote boþi sijno. oc man her ijlt afleiþa; Grámann seigez ecki þat sia, at sva mani verþa, oc var Hrócr betr af dogom raadinn, sacer ufæmda oc illyrda. Dalmann seiger: Eg mon nw fara oc hitta Koong oc lysa vijgino, mun hann geora þiri mijn ord oc taka bætur fyrir Mann sinn, enn þw scalt heimfara, Grámann seiger: hann raaþa scylþo. Dalmann fer nw a funþ Dumbs Koongs oc seiger hanom hvaþ i havi ordit i vid-sciptum þeirra Hrócs oc Grámanns oc bydur Koongi bætr, Dumbr seiger, jaþnann avglysir þw fooftbrooder goodvilia þinn til vor, oc scal ey sia munur Occar vera at ec geori fegiold af þier oc sonom þijnom firer eins manns vijg, oc munom viþ scatter. Dalmann þackadi Koongi umtal sitt, oc scylþo þeir sijþann meþ kiærleikom.

## ij. Cap.

Sva hevir fraasagt verit at Dumbr Koongr væri stioornsamr, oc harþr

harþr i refsingom, oc þoldo Jotnar illa Ryci hanns. eN treistost þo ey til atgeorda eþr atfara viþ Koong saker Dalmanns oc sona hanns; oc leiþ sva fram um hrijd. at alt var i kyrdum. Nw tecr Dalmann sootts micla, þa er hann leidir til bana, oc scomo þar epter andadist Svarfrlavg, oc binggo þeir bræþr um lijk þeirra, oc drucko Erfi, Var Koongr at þeirri veitslo. Oc leisto þeir bræþr hann wt med Vingeofum, þotti Nw Jotnum steini wr gotu hrundit: er Dalmann er andadr, Oc tala nw firer Koongi, þat micla usæmd vera at menn hanns seo Rettlavser firer Dalmanns sonom, hvort helldr seo barþer eþr drepner, þar et hann refsi sumum miog fyrer smaasaker sva varla se þolande; Oc meige hann eige Koongdoom hava, ef hann læte slijco framfara, muni scamt þar til; at þeir komist at Koongdoominum; Dumbr gaf sig fatt um tal þetta, enn leitst þo, sem hefþo þeir satt at mæla, og vard nw færra med hanom og Dalmanns sonom. Þat var eirn tijma at Dumbur fer i Dalmanns Dali oc hitter þa bræþr, oc bidr þa bæta fyrer vijg Hróks, qvadst hann ei vegna virdinga sinna slycar sacer obættar meiga lijda, þeir bræþr qvaadu þess ofwser oc sogdu Hrók ohelgann socom ælyga, oc illyrda, Koongr baþ þa þa brott fara, or Dalmanns dolum; Veit ec at menn mijnir læta skioott af umrædum vid mig um slyca luti ef þid erud fiær. enn ec þoli lytt socum scaplindis mijns frijunar ord Jotna, Þeir tooco þesso lijtt oc qvaþo hann sialfsraada at ordum oc giordum, Oc for hann heim viþ sva bwid, Þat var eitt sinn þeir bræþr toluduz vid, at Armann seigiz vilia vægia fyrer Koongi sokum vinatto, oc fara wr Dalmanns dolum oc leita annara bigda; Grámann seigiz ei læetast vilia hrecia sic af fodrstodvum sijnum med Vafinnleysum, Armann segir, annadhvert munom vid baader fara eþa hvorigr ella, Grámann qvad hann raada mundo. fooro þeir þa or Dalmanns Dalum, til Finnlands oc dvoldost þar um hrijþ. Enn epter brottferd þeirra bræþra geordo Jotnar sig avgliossa i fjandscapi viþ Dumb Koong oc sa hann þa enn geor tilgang þeirra; þoottist Koongr Vina mist hava oc hitt lijkara at tilburdum munde fæta. Kom hann þa syne sijnum er Bárdr het til foostrs Vestr i Norvegi; Enn



hann

hann sialfr fell fyrer Jotnum meþ miclom atburdum. Nw þleit þeim bræþrum ijlt til Savdhaga oc Jardslæmt a Finnlande, sciptu þeir þa avde, oc for Grámann avstr til koldu Sviþiodar, Enn Armann Vestr til Norvegs oc scildu þeir med kiærleikum.

# iij. Cap.

Í þann tijma er Armann kom til Noregs var Haraldur Lúffa Koongr yfir Norvegi oc hafþi sciptid Ryci meþ sonom sijnom, var Ericr Blóþoxe firikoongr þeirra, hann hafþi fengit Kono þeirrar er Gunnhilþr het, hwn var vitr Kona oc frijd sijnom, hafþi hann veitslur nordr um land, Armann hafþiz vid a Haaloga landi, oc var stundum i kavpferdum, Koongr oc Gunnhilþr spurdu til Armanns, oc þat hann væri afbragd annara manna saker vits oc atgiorvis, Geordu þavg hanom ordsending at koma a sinn fund; Armann tooc þvi lijtt, Enn er honom komo þav boþ opt, vilþi hann ey þa ferd under hofut leggia, þav tooco vel vid hanom; oc var hann med Erici Koongi i hinom mesto keærleicom um hrijþ, Þat sann Gunnhildr DRoTning at Armann var margvitur oc frooþur um alla luti oc heimti hwn hann opt a tal vid sec, nam hwn oc at honum marga vitsku oc higgindi oc virdti hann framyfir hvern mann i Koongs hyrdinni, geordust þa nockrir menn til at wfrægia þav firi Koongi, oc qvaado slijkar samrædur mundo Nockro sæta. Koongur vard sar viþ þetta, þat sann Drottning oc leitadiz epter af Koongi, hveriu gegndi, hann dulde hana þess. Enn qvad hana þo miclo valda mega, Gunnhilþr seiger, Er sem mic grunar Herra, at samtal Armanns oc mijn standi ydr fyri gleþi, maa þat ei sva vera, enn satt vil ec segia ydr þat. at slijct hefir ei med lijtum verit, Nw mun hann ei una her viþ aalijge ydar, Enn hitt vænter mic eg geti rett til, at su tijd bere ocer at hondum, at viþ vilþom hann fyrrann, þvi hanns Jafningar eru ecci margir her i Norvegi, Koongr svaraþi Ongu, Enn Drottninc gecc i brott, oc var dreyraud at ysiliti, hitter hon nw Armann oc seiger hanom fra Vidurtali

Koongs oc sijn; Armann qvadz at þvi geora scylþo. Oc bijr hañ sic i brott. hon bad hann ei sva fliott fara scilþo, hann seiges noogu lenge þar verid hava henni til aamælis at saclavso, hon baþ hann qveþia Koong aaþr hann færi, mætti tilbera at Koongr hefþi tecit sinnasciptе. Armann qvad Nei vid: Drottning tooc þa gudsvefiar scickio, motur gullosinn oc hœalsmen; Oc mælti, þessa gripi gef ec þier Armann, Enn þat er meþ scilordi þvi; Ef þier verdur avþit at unna Kono. at hon niooti þœa gripanna, oc vil ec jafnañ hava Vinatto þijna: Armann qvadz ei feþurfe. tooc þo vid gripo-num, oc þackadi Drottningo, scylþo þav meþ kiærleikum.

## iv. Cap.

Armann vill nw ei leingur dvelia i Norvegi; oc þad hefir hañ spurtt, at aa Islande seo landkostir gooþir oc savdse gott; Var land þœa vijda numid, oc margt manna wr Norvegi þœangat komid, fijstiz hann þvi Islandsferdar; Þann vetr var i Norege Þorkell Islendskr madr, hann aatte bw ad Arnarbœli. fyri suñan heiþi, oc hafþi soottan hwsavid til Norvegs, Med hanom tooc Armann sier fari; oc gaf þeim vel byri, sva þeir aa vij dogum, tooco hosn i Selvoge, Armann gecc fraa scipi er þeir hofþo landtekit. hañ lypti hwdfati aa herþar ser, þat var sva mikit, at menn hielþu, at tiju menn mundu ei meira lypta, oc kistla tva hafþi hann i faangi, oc stefndi til fealla. Maþr beo at Reikium i Olfusse er Ingulfur het oc var Arnarsun, setti hann firstr manna bigd aa Islande, þœa var hann aa gamalls aldri oc Sioonlos. þar beiddiz Armann gistingar. Þar var hann uñ noott oc veittr beini, hann hitti Ingulf aaþr hann færi af stad, oc bad hann vijsa sier boolstad, Ingulfur qvadst ei þat kunna, þvi lond ero vijdast numinn, þar er biggvænlegast þikir, enn mier virdist sva uñ hag þinn; þw manir ei bigþarþravng þola, Enn upp fraa Hrafnabeorgum fyrer ofann scooga ero sagdir landkostir. og ero menn Nyfarner at biggia þar. Armann þackar Ingulfe lidsemi og hwsavist, og stefner þadañ nordur uñ heyþi oc up til Hrafnabearga.

Hallketill het maþr, hann var leisingi Ketilbearnar at Mosfelli, hann beo Efri lut æfi sinnar at Hoolum i Lavgardal, honum græddiz fe miøg, oc er Lavgardalur vard fiolbigdari, þootti Hallkatli sier þravngleudt; selldi þvi landet at Hoolum oc flutte bigd sijna, oc beó undir Hrafnabeorgum Vestr fraa Scealdbreid. hann var goodr boondi oc hnijginn aa Efra alldr, Armann kemr þar sijddags oc beidist gistingar. boonde veitti sliet er hann beiddist, ad morgni skoradi Armann aa boonda um Vist oc Vidtoco, Boondi liet þad til reidu Ef hann vilþi starfa, Armann qvadst Eingi starfmadr vera, Enn giætta ec fear i gooþo vedri þaa ec var Ungr, boonde qvad ser þann starfa hentann Er her margt savþa Enn vijþlendur miclar, oc fæcer fet norþr til Joklanna, þætti mier gott þw litir til meþ Smalamanne, Armann qvad sva mætti vera, oc var þar þav misseri.

# v. Cap.

Þaa er kom fram aa vetr oc lengdi daga, geck Armann Nordr oc austr um feoll, oc geordi ser leider kunnar oc landslag, þat var eirn dag at Armann gecc um kletta noccra er liggia Norþr fraa Hrafnabeorgom, hann saa at maþr gecc firi hanom, Madurinn var lagr vexti, oc hafþi fuglakippo aa herdom, Armann nalgast hann sceott, oc spir hann at Nafni hann qvadst Hleidúlfur heita, oc aa ec her bigd, eþa Ertu Armann; oc veit ec vijst þw styrer heillom. Armann baþ hann vijsa sier til Boolstadar, þar er landkoster sieu Hleidúlfur seigist þat meiga geora; fell stendur her gagn vart; oc eru sceogar miclir oc grasgiæþi, at travtt muno betri finnast, Oc vijsa ec þvi þier her til at ec vil þic sem næst bigd minni, þvi mier mun opt gagn af þier standa, oc fleyrum Er þijn vidþurfa, Armann brosti oc qvad honum vel mælaz, oc mantu goodr karl, gaf hann þaa Hleidúlfi knijf oc belti, hann tooc viþ oc þackadi giofina oc qvadz lavnaþ(?)cilda, Armann seigist ei til lavna giefid, enn gooþ þicir mier Vinatta þijn, scilldo þeir sijþann oc fer Armann heim,

Um̃ vorit at twijmánaþi talþi boondi feet sitt, oc var Einskis vant gaf hann Armann 12 ær meþ lombum oc 12 gelþinga. Reiste hann bigd Sunnann under fellinn oc feldi scoog til rioodurs. Ei er gietiþ at hann rieþi hiw til bwss sijns, oc græddist hanom fliost fe, þat fann Armann at feet sootti meir Nordur um fellit, þootte hans om ægangr meiri hit neþra, flutti hann þa bigþ sijna Nordur i fellid; Þar hafþi hann hellir micinn oc annann handa feeno: Vandi hann sva feet, at þat rann sealft til hellirsins hvert kveld er Vidradi.

Þat fundo bigdar menn sceott, at epter þat Armann kom i fiallid, urdu fearhavlþ oc heimtr betri, og tolþo Bændr fee sitt wr Afrettum, Enn þess er vant var, kom sealfkrafa oc þootti þeim sem Armann ræki þat til bigþa, tooco þvi marger þat raaþ er þeim var nockors vant, at heita a hann til fulltijngis, oc sumir leituþu stirks oc healpar hia hans om, oc þat gafst þeim ollum vel, georþiz hann þvi vinsæll vijþa um landit. A sumrum hellt hann fee sijnu Nordur um̃ Blaascooga, oc i felli þvi, er hann kallaþi Kvikfeindis fell, oc þootti hanom þat þa feitara at Morvom. Þa er Armann hafdi verit nockra vetr a Islandi, kom utan wr Norvegi Barþr Dumbssun frænþi hanns; oc setti bw a Snæfells Nesi; fundust þeir brætt, oc bundu meþ ser þann forna Vinscap, er verit hafþi meþ fedrum þeirra, oc sva hefr fraasagt verit, þeir hafi þeigit Veitslur hvor af oþrum̃ at miþium Vetri, oc helþo þvi jafnann.

# vj. Cap.

Meþ Nwpa Bárþi foostbrooþr Barþar Dumbssonar kom wt sa maþr er Þórálfr het, hann var hal Eystr at kyni, mikill oc sterkari enn adrer menn, illr oc Ueyrinn, hann var secur geor of alt Haloga land um̃ Vijgaferli oc kalladr Vargr, hann dvalþist um̃ hrijd meþ Bárþi boonda at Nwpum, Enn er Bárþr vilþe ei halþa hann leingr socom scapsmuna oc Ueyrdar, foor Þórálfr a brott, oc falaþi Vist. Enn einginn vilþi taca viþ hanom. litlo sijþar var hann secr geor. of Rossareiþ. (Hrossaþeyofnat) lagdist hann þa a scoll, oc stal fe mana,

ilt

ill þootti Þórálfe æfi sijn. teer hann þat ræþ, at hann hitter Armañ, oc biþr hann ræsicar oc vidtoco Armann, qvaþ sier ei um Ofyrdarmeñ, oc gesst osse þeirra jafnann illa, oc mætto leita þier annara wrræþa, Þórálfr skorar fastlega þetta mæl, oc biþr hann þat nockod tilléggia med hanom er at healp mege verþa, Armann seiger, Fell eitt stendur suþr af scæalþbreid. Upp i fellinu er hellir micill. þar er þat besta vijge, so travtt eþr ei mæ i hellirinn komaz ef eirn maþr ver, þar allscamt fræ, er fiskivatn þat er, Hvijtæ fellr wr, oc er þar veiþi nooglég; So þier mætte þetta at lidi verda, enn legg niþr ræn oc þeoofnad, ella man þier ei atduga; Þórálfr fer epter tilvijsan Armanns i hellirinn. byst þar um, oc veider wr vatnino. Enn meog trillist hann nw til scapsmuna, oc long þicir hanom æfi sijn i hellirnum, oc at ære liþnu fiñr hañ Armann; oc seiger hanom sic ei socom læangsemi gieta lengr þar verit, Armann seiger hann vandrædamann vera; oc finn mic at veturnætom, man ec þæ nockod tilleggia, þvi ec þicist vita hvat hugr þinn horfir um þetta mæl. Oc fer Þórálfr brott. Armann hafþi lært iþrott þæ i æsku, er tijdkud var æ þeim tijmum nordr um Gandwic oc Hafsbotna, at hann foor Ganreiþ i lopte hvort er hann vilþi, hann sootti þæ avstur til Finnlands Hladgerds doottir Innsteins Jarls, meþ hennar Vilia hwn var hit mesta troll at vexti oc afli. Enn liwf oc hæg i scapi, oc vel vite borinn, oc hafþi hana meþ sier i fellit. Enn at Vetrnoottom kom Þórálfur, Oc gipti Armann hanom þæ Hladgerþi, foor hann meþ hana i hellir sinn, Oc Unde sier nw betr. Oc sva bætte Hladgerþr scap hanns, at hann var spacr oc Eyrinn, þav ætto Þreu born, Þórir het sun þeirra: Eñ Hallgerdr en Elldri doottir, oc Þorgerdur en Ingre; hennar feck Brandr hinn sterce under hlijd. þeirra sun var Hallmundr i Balljokle; Enn Hallgerde ætte Geir i Kelldudal. þeirra siner voord þeir Bergþór i Blæfelle. oc Innsteinn æ Reikanese. Þórir sun Þórálfs var opt at foostri med Armann, oc kenþi hann hanom margtt i fornom Vijsdoomi.

## vij. Cap.


Maþr het Oddr. oc var Sæmundarsun, Ulfarssunar, Þórisunar,

ſunar, Hallmundarſunar af Fitium, Micill maþr oc velbwin at iþroottum, hann beo i Tungo i Efra Reikiadal. hann haſþi tecit vid Godordi, hid Nydra um̃ Reykiadal, Oc feingit Þórdíſar doottr Bardar Dumbsſunar; Smalamadur Odds oc Þeirra Kroppwæria deildu um̃ beyt, oc rac Smalamadr Odds fenat Þeirra yfir Ana, En Smalamaþr fraa Kroppi ſcavt ſpioote yfir Ana oc i gegnum hann oc fannſt hann Þar davdr. Ei lyſtu Kroopmenn Vijgino; Oc var Þat lavnvijg eþr mord, Þat maal ſotti Oddur aa hendr Kroppsmonnom til fullra ſecta, Enn Þeir vordo, oc fecc Oddur ei framkomit maalino. ſtefndi Oddur Þvi maali til Þijngs; Fiolmentu hvoretveggio oc hofdu Kroppsmenn fleyri; oc vordo Oddi Þijngreid oc ei nadi hann at tiala Bwd ſijna, En aadr Oddur reid til Þijngs, mælti Þórdis til Odds, Ef Þier verdur torveld ſocnin ſem mic varir. Þaa finn Þw Armann i Armannsfelli, oc ber hanom qvedio mijna, Oc ſeg hanom, mier oc Barþi Favþor mijnom Þici micit undir Þvi komid, at Þw haldir Virdingo Þinne fyrir Kroppsmonnum: lijdur nw fram um̃ Þijng at Oddr kiemur ei fram̃ malino oc ei nær hann Þijngreiþ; Þat var eitt qvold, at Oddr Sodlar heſt ſinn oc rijdr upp med Armannsfelli oc Nordur firi fellid. hann heiter Þaa aa Armann til Vidurmælis, ſcommo ſijdar ſer hann mann i fellino, ſaa var i Blaakufle, Oddr Þicist vita hvor Madurinn ſe, oc ſtijgr af Heſtinum; oc gengur upp i fellit, Oc heilſaſt Þeir, Armann ſpyr hver hann ſe, oc at Eirendum, Oddur ſeigir hiþ ſanna oc ſcilar Ordſendingo Þórdíſar; Armann ſeiger, Ei er eg lutſamur um̃ maal manna; oc ey kemr mier Þetta viþ. Enn lijtt ero Þeir menn annars Sparande, er veria odrum Rettra laga oc Þat mun Þórdis frændkona vilia ec lutiſt ad; Nw ſcalto meþfara ſem ec ſeigi firi; A morgon er Sool ſkijn aa Þijngvoll, Þaa vertu kominn at logbergi, vid vij.da mann, mano ongver Þaa varna Þier Þijngreidar; Þw ſcalt nefna Þier vatta viþ Þaa vatta, oc biooda ſetu, oc nefna aa nafn doomendur alla, er i Þeim doomi ſitia er doomur ſcal framfara, ber ſijdann ſocina i doom, oc nefn vatta til, viþ Þaa vatta at ſoc er i doom borin̄, lys ſva ſectum̃ oc ſocnum̃ til riſingar oc nefn vatta til vid Þaa vatta, oc Þat at ſoc er i doom borinn at logom̃ rettom̃, Oc eigo doomendur er i Þeim doomi ero at ſoc Þaa at dæma, er Þeir coma til dooma, Þo ei ſeo



adr

adr vid. far nw meþ sem ec segi, segir Armann. oc finn mic þa er þw rijdur af Þijngi; Rijdur Oddr aptr til manna sinna; Oc um Morgininn rijdur Oddr a þijng oc fer med alt epter þvi er Armann talde firi, Varnadi Eingi Odde þa Þijngreidar oc eingi vard var vid for hanns. Enn er doomsmenn coma til dooma: stendr Oddr þar upp oc menn hanns, oc nefner vatta at, at soc er i doom borinn; oc bodinn Vørn, Var þa Kroppsmønnum tilsagt at Oddr er at løgbergi oc sacer frambornar oc geta þeir ei atgeort; Enn tala þat at doomi at soc se ei rett sott þar doomendr voro ei at doomum, er soc var i doom borinn; Þootti sumom sem Oddur færi med løgleiso. oc var logmadur atspurdur um þetta; hann spir ef vattar ero nefnder til, at doomendr voro aller nefnder er i þeim doome voro, þeir qvaado sva vera Logmadr qvad, marger gierast nw lagamenn, oc ero þetta rett log i Norege þo forn seo. Oc foor maalit wt oc urdu Kroppsmenn secir at løgum, oc þotti øllum Oddr draga bust wr Nefe þeim, undo þeir illa vid, oc ridu af þijngi; Enn Oddr hafdi Virdingo oc almanna room, at hann hefþi maali sijnu hagat at higgendum, oc at Þijnglocom reid Oddur heim af Þijnge, oc hitte Armann er hann reid fra flock sijnum, Armann spir hann at Maalalocom, Oddur seiger af hid sanna oc þackar lidveitsluna, oc giefr Armann Gullhrijng þrij Eyring; Armann qvadst ei seþurfe, Enn socum Vinatto mann ec þiggia; Oc man ec þat tilleggia enn med þier, at vegr þinn vaxe. Nw vilþa eg, at þw heimter eige secter af Kroppsmønnum, oc giefir þeim upp sacir allar, Enn Veganda frialst leifi af lande brott til fluttnings oc utannferdar; Oc seg upp at leidmoote, Oddr seger þad man Þórdis Kona mijn tillegga ec havi raad þijn; Ey man Virding þijn at minne seiger Armann. Oc sclldo med Kiærleicom; Enn er Oddr kom af Þijnge stefner hann leidmoot, oc bodar Kroppveria til moots, þa stood Oddr upp oc mællte, Þad er øllum kunnugt hvorninn maalaloc ydar Kroppsmanna oc vor hava tilgeinged, foor þat epter lijcindum, þar þier med Offa oc kappi vornudud Os rettra laga; Enn fyrir þa soc Vier foorum med soc retta, hevir ec hærra lut afborid, Oc at vitni þeirra, er her ero at leedmoote, þar ec er Aþile sacar oc maa mesto um raaþa, gief ec ydur sacer allar oc secter qvittar þær er domendr dæmdu at logberge i sumar, Enn Veganda fluttnings oc

farar

fararleife frialst til Norvegs edr annara landa, oc e'ge ei wtkvamo van innann 16da Ars, Scal ec at Sumri sealfr standa fyrir doomroofe, oc geordar lysingum at logberge. Allir þockudo Odde geordina oc qvaþo hanom vel fara. Kroppsveriar handsaludo Odde Godorþ, hit Sydra om dalinn, þat er þeir fooro med. oc toocst upp meþ þeim Vinatta, Enn Virding Odds voox af þesso sva mioc, at hann hevir þoott verit hava. einhver mestur hofþinge. Suþr of laud.

# viij. Cap.

Þat bar til at eino Sumri, at Armann foor at screidar oc mislkavpom til Suþr Nesia, þa er hann foor Sunnann foor hann it Efra Epter heide, oc aþi under Hellis scarde i Ravnino, lagdist til Svefns, en slepte Rossonom a beit; Maþr het Þorbiørn oc var Þormóds sun, hann beo i Þormoods dal at Helgafelli, hann var qvongaþr, oc atte dotter er Helga het, hon var a Unga alldri Frijd Kona og Efnileg Sva þar fannst Eingi Værni; hon Var at Selium Fram i Dalaum. Enn Smalamadr rak bwsmala om morgininn til sels, hann sa Rossin oc þecti ei. Enn ecki sa hann Manninn ne fluttning, hann hyggr at bigdarross sieu oc rekur til Sels, oc biþur Helgo tilsega Ef nockr lysi epter, fer hann sijdann til bæiar oc annat foolc er giætti starfa, Enn boondadootter Ein giætti Sels. Armann vacnar nw, oc sacnar Rossanna leitar hann ofann epter dalnum oc sier Rossinn scamt fra Selhwsum, hann geingur til hwsa oc sier eingann wti, hann geingur þa inn i Selid, Boondadoottr verdur billt viþ er hon ser Manninn; Enn Spir hann sijþann at Nafni, Armann seiger, Eg hiete nw biþill Þian, oc sette hana i Kne sier; hwn æpti oc baþ hann ei sva geora, hann qvadst munde raþa viþsciptum þeirra, hlavt nw at vera sem Armann vildi, oc redi hann fyri þav bæþi; Epter þat rekr hann Hestana oc fer leidar sinnar, Helga horfer epter manninum er hann geingr fra Selino, oc synist henni Madurinn micill oc dreingilegr. hafþi Hottrinn rekist ofan oc var ravd Silkihwfa Under, enn hærflettr sloouft um herdar at mitti. Epter samfund þeirra vard hwn þwngud oc at alidnum vetri fædir hon

Svein eirn. hann var frijðr oc stoor, Þorbiørn boondi bræst reiður við hugði hann Smalamaðr ætti barnit, þvi Helga vilde ecki segia til faðernis, Skipaþi hann at bera barnit wt; oc qvað þat þrælborit, Helga bad Sveininom griða, oc seiger hann meiga viðlwast þann eirn vera favþr at, er Saar mun i Sonarhefndinne, Boondi let hana þa raþa, oc joos hwn Sveininn vatni oc kallaði hann Ulmann (Urmann) Olst hann þar hia moodr sinne upp um Rijð oc var Efnilegr, Aldrei liet boondi sem hann sægi Sveininn oc bio illa at hanom, enn mooþer hañs veitti hanom slijct er hon kunni, EN er Ulmann var 9 Vetra var hann meiri oc stercari enn adrir Sveinar, enn lijtt vandaðr var hann til Klæða oc scipaði boondi hanom at geæta Rossa, Þat var eirn dag of vetr at Sveirninn rac rossinn til fealls, var veðr kalt oc drijfandi, hann ser at maðr geingr mooti hanom sa var micill vexti oc i blaakufli, hann geingr at Sveininom oc mællti illa georer fooſtri þinn, at hann lætr þic Vesalmenni hreciaz wti i Kuldaveþri oc kom með mier til bigda minna. Ulmann spir hann at Nafni, hann qvað hann ongvu það varða, Enn það mundi mooder þijn tala Være hon her at ec være faðer þinn; Sveirninn seigest vilia mooþr sijna vita læta af brottferð sinne. Armann seigei þat ongvu varða, tekr hann nw Sveininn oc hevir heim til bigda sinna. Oc er Ulmann þar of hrijð teer hann nw þroska oc atgeorvi, sva færri syndu; hanns jafningar. Enn er hann hafþi iij vetr verit at favðr sijnum, mællti Armann, hvat hann vilþi afraða þvi þier man þicia her davf æfi þijn i feallino hia mier, Ulmann qvað hug sinn lytt þaðann hvarla, oc gott þicir mier hia þier at vera; Ei ma leingur sva vera seiger Armann þa vilþa eg þw reðir mier fari, oc færi ec utann at sumri: her a lande man geæfa þijn mest seiger Armann, oc skaltu fara heim til mooþr þinnar, þw scalt beiþast af fooſtra þijnom Sellands þess er hann hefer upp under heiði, þar scaltu bw setia þvi þat ero fornmæli, þar se giæfa hvors mest sem gietinn er. Oc nw scalto færa mooþr þinne Gripi þessa: stickio, motur oc men; scal hon eiga þa oc eige looga, man hon þa helþur til viþ hvorn hon hefr feinʒ enn sijþann man ec sia fyrer raþi hennar. Fer Ulmann heim i Þormodsdal, verður mooder hanns hanom feginn, þvi hon hugþi hañ ongo dauðann; hafþe Ulmann tecit þann þroska sijþann foor a brott,

at

at hann sambavd þeim Ravskustu karlmonnum er til alldurs voro komnir. Eitt sinn mælir Ulmann til Þorbiarnar foostra sijns; þess vil ec biþia þic, þw giefir meir Selland þitt, Vil ec þar reisa mier boolstad; Þorbiørn brœst reiþur vid, diarfr ertu Þrælborinn at œskia þier boolstadar; oc scaltu vinna her i sectum oc fyrir foostri þijno. hevir þw leinst œ brott vr vist þinni oc lavpit um land, oc ertu illur maþr, oc illr man faþir þinn, hvort hann er troll eþur maþr; Ulmann vard saar viþ, oc gieck œ broott Et sama qvold vard Þorbiørn bræddavdi at Snædinge. oc mundo menn til geta at Armann heþþi ey viliad lijþa hanom lastyrde; Tooc Helga þar viþ bwi þvi hon var Einbyrni en Ulmann geordist forstødomaþur hennar, oc verda þœ margir menn til at biþia hennar, enn hon neitar þeim øllum Oc er nw vegr hennar med Virdingo. Er Ulmann sun hennar kallaþr þar mestr manna i sveitum oc lijþa þav missiri.

# ix. Cap.

Maþr het Arnliótur oc var Gavtasun kallaþr hinn Audgi, hann bioo at Midfelli vid Þingvatn; Þórarinn het sun hanns, fridur maþr sijnum; sterer oc vel iþroottum bwinn oc vænstr manna þar i bigdum, Arnlioti var vant savþa at Sumarmœlom þœ er Rija scildi; oc biþr Þórarinn leita epter, oc seigir Savdina runna œ Sumarstødvarenar firri; Þórarinn bydst aþ staþ, oc leitar um heiþi oc upp til Hrafnabiarga hann lijsir savþonum firer smalamanne at Reiþartwni, En hann seiger þœ firir nockrum døgum runna Austr i Ravnit. Þórarinn helþr œfram leitinni, oc geingr nordr of Ravnit, þœ kiemr ifir hann þoca micil, sva hann veit ei stefno oc villist hann brœtt oc veit ei hvort hann helþr, geingr sva leingi dags, honom þicer nw illa œhorfaz um savdaþundinn, oc heiter œ Armann til fulltingis, littlo sijdar heirer hann hooad i þocunni, hann geingr epter hliodino; oc þicer hanom lioodit þvi fiær er hann gengr leingr, ser sva œ qvolþ fram; Oc er hann þœ cominn i fell eitt. Þvi næz sier hann mann i blaakubli, sœ geingr moot hanom oc qveþr hann blyþlega. Þórarinn tooc qveþio hanns oc þicir vita þetta er Armann, spir hann eþ hann vissi til Savþanna, Arman seig-

seiger þat ei lángt þadann; oc byþur honum til hybila sinna oc taca hvilþ Þórarinn seigiz vilia heim eþ hann vijsade hanom Savþina. Armann seiger illa ſkignt til leiþar meþann ei letti aþ dimunne oc munom viþ sitia oc kasta mæþi. Settust þeir niþr oc toluþo um hrijd, Spir Armann hann margra luta wr bigdarlægi oc aþ hættum manna Þórarinn leisir slijkt er hann spir; Armann spir hann um Unga menn oc Konor. Oc eþ hann er Uqvæntur, Þórarinn seiger sva vera, Armañ spir eþ hann vilie qvongaz oc er þat Ungra manna at stadfesta ræd sitt oc setiaz i bwnat, Þórarinn qvadz ei hava þat hugfest at sva bwnu; Armann seigez vita þiciunst ec þier muni ei allar þicia þier jaþnbodnar þvi þw ert maþr giorvilegur, eru þo margar vel at sier, oc manto þo þetta sem adrer upptaca. Þórarinn sier at Armann slitr þetta med ahiggeo: Oc spir eþ hann vissi sier Kono viþ sitt hæþe, veit ec vijst seiger Armann; Helga i Þormoodsdal er sia Kona er nw er ægiætt oc er vegr hennar med Sooma, þætti mier ræd þitt virduligt eþ þw þeinger þeirrar; Þat mæla sumer menn seiger Þórarinn, þier comi noccot viþ ræd hennar, eþr munto vilia tilleggia meþ henni, Armann seiger Ei ber ec þat aþ mier. at eg eigi at hlutast til um ræd heñar, þa mætto miclo um ræda seiger Þórarinn oc er ec fws at biþia hennar eþ hwn vill þvi taca; Armann seiger þa legg ec til meþ henni xx hundraþa. þeirra avra er xvj avrar silli hvert hundrat, oc scal ec greiþa i Gulli silþri oc gripum, vel er þat tillagt seiger Þórarinn oc man eg leita ræþsins med þinni þorsiæ, til man eg hlutaz seiger Armann oc scilþo þeir taliþ, vijsaþi Armann honom savþina letti þa upp dimmunni oc fer Þórarinn heim. Scømmo sijþar kiemr Þórarinn at mæli viþ þavþr sinn oc seiger þat vilþa ec faþer þw leitaþer mier Qvonsængs, Arnliótr spir hvar hann horsi a um þat mæl, Þat þætti mier lijclegast þw biþier mier Helgo i Þormodsdal; Arnliótr seiger þat hevir ec spurtt hon se mann vond; Oc ey veit gieorla ræd hennar oc ei ſkil ec hvorninn hon tecr þesso enn væn er Konan; oc mano viþ freista, Rijþa þeir þa i Þormodsdal oc tecr Helga vel viþ þeim, oc ber Arnliótr upp boonordiþ; tooc hon þvi mæli seinlega. Þórarinn qvad Armann sier þangat vijsa oc telur þram tillogr hanns, jætaþi hon þa giaþorþino oc fastnaþi Ulmann Þórarne moodr sijna. Oc scal brudkavp um havstit

havſtit at Þormoodsdal, Þat ſama ſumar beidde Ulmann doottr boonda at Ulfsſsvatne var hon honom heitinn; Oc beid hooſit havſts oc ſcilþi þat halþaz under eins i Þormodsdal.

Nw lijdr ſumarit fram til havſts, oc bwaz þav Ulmann oc Helga viþ boþino oc draga þavng til ſem meſt mœtto var nw aſettur dagr oc boþit monnum, Ulmann ferdaſt þa oc hitter fodur ſinn oc baþ hann þiggia boþit, Armann tooc þvi lijtt, oc qvadſt ei hirþa at trodaſt under mannafootum; eþr i þrøng vera; foor Ulmann heim; Scømmo ſijþar kom Þórarinn oc bad hann ſitia at brudcavpe ſijno i Þormoodsdal, Armann het ferdinne oc qvad Ulmann fir boþit hava. Kiemur þa bodsfolk i ſettann tijma. Var øllum Velſagnat oc veitt Virduglega, oc lijþr firſti dagur Sva at Armann kiemr eige, Oc þicer Ulmann oc Þórarinn þat micit mein, Annann dag ſetiaſt menn under bord. oc er meiri veitſla enn firr oc lijþr dagr at qveldi, Þvi næſt gieck maþr i driccioſtoþuna, hann var Sva buinn, at hann var i ravdom ſkarlatskirtli gyrdtur Sverdi. Enn utanyþer i blaarre Gudveþiar Sciccio oc knytt Gullreim at utann, hiaalm gulli rodinn haþþi hann a hoþþi. Oc ſijlkihuvu under, med knitto gullhladi vm Enniþ, hvar hanns þoor i atta lockum oþ herdar at belti, oc GullRyngr a hveriom lock med digra Gullhrijnga a baaþom hondum, meiri var hann af herdar enn tveir menn adrer; Ulmann ſtendr upp er maþrinn geck inn, oc geck a mooti hanom oc heilſadi favþr ſijnom bad riþia avndveige oc leiddi hann þangat til Sætis, bra morgum i brwn viþ hanns qvamo, Armann ſettiſt niþr, ſat vm hrijd, oc litaþiſt vm hann haþde Klaſſeck under hendi, ſtooþ upp Sijþann oc geck þangad er Bruþirnar ſato, Oc mælti: Mun ei maal Helga at þw heimter Meydom Toll þinn oc raadſpeoll; enda ſcal nw greiþa, leiſti hann þar til ſeckſins oc talþi fie i Kiottlo hennar xx hurdr. 16 Aura hundrada i Gulli oc ſilþri oc dyrom gripom. oc mælti: Þaangat ſcal ſculþ gealþa er aaþr var Uttekinn, þvi næſt gieck hann þirer Ulmann oc talþi þram jamnt ſe hino. oc mælti, hyrþ þw Ulmann foþr arþ þinn, oc þarþtu ei til meira at higgia, Gieck ſijþann til ſætis er

honum

honum vár aþr tilvijsat. Helga oc Ulmann Stooþo upp oc þockuđo hanom fegreiđslona Allir mælto er inni voro, at þar þæri saman Um̃ Manninn oc orlœti hanns. Oc þotti ollum sa beckr prijdaz Er Armann sat a. Var þa Skemtan micil oc faz druckid um qvoldit. Enn er kom a natt fram̃ oc menn vilþo fra drickio. Skipar Ulmann at leiþa soþr sinn til sængr, Enn hann var þa horfinn oc fanst hvergi oc ei var hann meyr at þeirri Veitslo; leiþ so aþ Veitslann oc voro menn med geofom Utleister, Visso nw allir at Ulmann var sun Armanns. Oc þat mællto sumer menn at Helga heþþi Optar avgo syn a Armanne Enn Þórarinn, bar hon þa gripina eno gooþo er Armann sendi henne, Oc hava þeir fyrisatt haþt er þa gripi sau, at i Kvennþyngom havi þeir ey Jamngooþa gripe Senna, Settust þav Þórarinn oc Helga at Helgafelli i Þormodsdal. Enn Ulmann reisti bæ sinn vm variþ, þar er hanom var tilvijsat oc heiter sa bær at Ulmansfelli, þav Þórarinn oc Helga untuz vel, oc beuggo þar til elli. Enn Ulmann at Ulmannsfelli oc er martt manna fra hanom komit.

# x. Cap.

Mi meþann þesso foor fram̃ er nw var frasagt, bar þat til Tiþinda at Hlaþgerdr Kona Þórálfs i felli tooc sott til bana, oc fooTi Þórálþi þat illa; bioo hann um lyc hennar þar i fellino, oc kallaþi þat sijþann Hlaþgerdarfell (Hlodku edur Hlodofell) Epter davda hennar geordist hann so illur oc scapstiggr, at dœtur hanns flydu fra honom oc giptuz þa sem fir seigir, Scommo sijdar foor Þórir a brott var hann þa ymist at Armanne, eþr avstr at fiskivatnom, viþ hann er keunt Vatn þat er Þorisvatn heiter i obigþom, Enn Þórálþr helt eirn hellir sinn, trillist hann nw mioc oc stelr fe manna oc Rossom lijdr svo om hrijd; Þa er Armann haþþi verit xix eþr xx vetr her ut a lande; bar sva viþ at Bárdur fra Snæfelle atte at þiggia Veitslo at Armann, oc at miþiom Vetri kom hann til bodsins þa var Oddr i Tungu Magr hanns i for

i for meþ hanom. Armann tooc viþ þeim með blijðu, var at þvi bodi martt manna, Hallketill þra Hrafnabeorgom Vinr Armanns oc fleyri adrer, Að þvi boþi hofþo menn þat til Sceintis at jamna samann Mavnnom, Oc þvi næst oþ þræta, hvor þa mundi stercastr a lande her; Armann seger þat Bárð frænda sinn, enn aþrer tolþo ymsa til, Bárþr seiger fatt sva agiætt, at ei finniz a giætara, oc er her a lande martt hravstra Manna, Enn eg Eilþwuz Oc mano nockrir meiri; Armann seigir ey sva vera meiga Bárdr seiger þat meige reint verda: Oc scal her moot leggia at vori. scal Armann boþ gera. suþr oc avstr off land. Enn Bárdr Nordr oc Vestr; fooro menn sva fra boþino; Oc er com fram a Vorit giora þeir Ordsending off land. Eirikr a Ericstoþom under sceallþbreið. Oc Olafur a Fyfilsvollum; fooro af hendi Armans; komo þar ènir stercusto Menn allir, þvi morgom þotti fysilegt þeim er nockut atto under sier; at sia leic þennann. Komo þeir aller saman at Armanns a settum deige, helt Armann Veitslu hin fyrsta dag, Annan dag Geck Eiricr for Veitslunne. Enn þridia dag; Olafr. Oc sparaþi hvorgi neitt til, Enn fiorda dag qvad Bárþr oc Armann at menn seilþo ganga a leicvoll, hia fellino var flott miciil; oc toocost þar upp leicar, seilþi first hrijngbrot; oc sagdi Bárdr for leikom. Enn Armann sat i brecko; oc Þóralfr þvi Armann vilþi hann ei at leicom vegna kappsmuna, ylt þotti Þóralfi þat, at þeir giordo hann rækann. Toocst upp Ryngbrotet oc bravt Bárdr first, fiello þa marger þoott hravster væro enn er hann mæddist, bravt Ericur a Ericstoþom, fello enn Nockrir. Oc er hann gaf upp bravt Brandur hinn sterci, fello þa sva margir at færri stoþo uppi, Oc var þeim leic hætt, Toocost þa upp Soppleicar, var sa leicr sottr med kappi Enn sva stillto foringar til, at eingvar araasir urdu med Slijcom Ofur Eflis monnom er þar voro. Þvi næst biþr Bárþr menn hætta þesso, oc taca upp glijmor, Scal Armann seiga firer fangbrogdom, Enn Þórir Þárálfssun skal glijma af hanns halfso; þvi hann var kallaþur fostri hanns, fooro menn af klædom oc tooco fangastacka, oc gengo first Þorkell Bundinfoti oc Ericur Enn sva lavc at Þorkell fell, Enn Bárdur hefndi hans;

Þa gengo til Brandur sterci oc Geir or Kelþodal, var þeirra glijma micill atgangr, fell Geir a kne oc hætttu vid sva bwed Bergþor var þa 10 vetra, oc var hanom scipat moti Ormi enom sterca Oc fell Bergþór, Enn Þórir hefndi hanns, oc fell Ormr a kne: Þa foor Þórálfur Steliungsson oc Lágálfur af Siglunese oc attust þeir lengi viþ adr Lágálfur felli; Marger menn aþrer glymþo þar oc geck ymsom betr. Þorálfur Sceliungsson geck þar at, er Þórálfur vr felli sat oc mælti: Er þat satt at þw sert stercare enn aþrer menn, sva þw megir egi at leicom vera sem aþrer meñ. eþr velþr oflæti, Ei er sva seger Armann. oc Vardar ei at navdga monnum til fangs, glijma scal hann seger Þórálfur oc tecr i fætr honom oc dregr hann ofann epter brecconni nadi hann ei stoþo firr enn a sletto com, oc raþaz þeir þa at mioc sterclega, Ei hofþo þeir leingi glijmt, aþr þeir homuduz baþer oc stigu i grundina alt ad skwreimum, Sooktuz þeir Nafnar nw i akafa, þvi næst braz lærleggr Þórálfs wr felli wr miadmarliþ; Oc foor hann þa hallloca firir, Bárdr oc Armann baþo þa uppgefa. Ecki vilþo þeir þat. oc stood Þórálfr firi a odrum fæti. Enn krumlr læstu þeir at beini hvor a odrum, Armann heitir þa a menn at scilia þa, Bárþr tecr þa Þórálf wr felli, oc Ericur meþ honom, Enn Armann oc Branþr Þórálf Sceliungsson. Þórálfr qvadst ei hyrda at sier se haldit sem hundi, oc Riscir Armanne mioc, oc spir ef hann vilie standa meþ illmenníno, Armann þreif i herþar honom oc varpaþi a lopt oc slengþi honom a Vollinn. hrock þa sunþr handleggr Þórálfs oc matti hann ei atvera, Bárþr mællti vel er nw fallit, menn gefi upp leic þennann, oc kunnom viþ ollum þock er sótt hafa, man mannfundr þessi i miñom hafþr, þvi eg higg, ei komi annarstadar samann friiþara drengaval oc roskvare garpar enn her eru nw, oc scal vollr þesse er Vier hofum hittz, heita Hofmannaflotr. Man þa helldr minne tilreca, at fundr vor, hever her verid. Hætto menn þa leicinom, oc foor hver til sinna bigþa.

# xj. Cap.

Walþi heit maþr. oc var kallaþr Scuggavalþi hann atti bigþ i

Valþadal, Sꝏ dalr er avstr frꝏ scealdbreid oc er læstur Joklum, Valþi var Trollavkinn Joton oc hamramr meoc, hann ꝏtte margtt Savdse; So ei wantade ꝏ 10 edr 12 hundrada, þvi þar var Savþland Gott i dalnum. oc geck sea!fala. Þórálfr i Felli er hann var heill ordinn ørkumzla; trilliſt þꝏ ætijd meir oc er þvi verri viþreignar i ſtulþom oc Rꝏni, hann fer vm havſtid i Válþadal oc ſtelr þar hundrat Savþa oc rekr heim i Hlaþgerþarfell, Enn er Valþe vard viſſ vm, fer hann oc hitter Þórálf oc beiþiz ſiꝏrens eþr Verds, Þórálfr qvad hann hvorgi hava, oc man ec meira hava ꝏþr lyer: Ecki treiſtiſt Valþi viþ hann i Hellirinn, oc foor hann heim. Þat bar til vm Vetrinn Snemma at Þórálfr foor at veidum ꝏ fiſkivatn oc veiddi off dæginn Enn er qvolþadi, geordi veþr drijfande oc byſt hann heim, hann ſier maþr gengur epter yſinom oc hevir scꝏlm micla i hendi hann lypter upꝏ sig fiſkinum oc rennr ꝏ leid, þiciſt hann ſiꝏ hvor maþrinn er, oc hvort Eirinde hanns mune, hann vilþe nw ei biþa þvi hann haþþi ei Vapna, Nema yſabroodd ſinn, helþr þvi næſt til fellſins, Valþi var Sporadriwgr oc kemſt mille fiallſins oc Þórálfs oc Ver hanom felliþ, Renna ſva bꝏþer off rijþ. veit nw Þórálfr hann nær eigi hybyli ſijno, oc mani ei ſva bwit duga, kaſtar hann byrþinne oc riedſt moot Valþa, Valþi heo til hanns meþ Scalminne enn Þórálfr bar af ſier meþ broþþinom, þar til hann ſier ſer fære at rꝏdaſt ꝏ Valþa, var þeirra viþreign hord oc long, enn ſva lavc, at Valþi geck af Þórálfe davdom: Scommo ſijþar off vetrinn kom Þorir at Avſtann at hitta Armann, hann kiemr ꝏ ſtavþvar savþr Sijns. er þar vm noott; oc vard ei var viþ hann, þiciz hann nw vita, hvad i moni Ordit, oc leitar eff dæginn, finnr hann þꝏ hrœ hanns, haþþi annar lærleggr geiŋgit wr mioþm eñ annar footleggr brottnaþ oc brotinn var hann wr hꝏlslidum, dyſiar hañ þar Þórálf er hann lꝏ davdr, oc geck heim ſijþann; Þar heiter nw Þoorꝏlfsfell er hann liggr Norþann under, Suþr frꝏ Hlaþgerdarfelli Oc ſegia menn at ſteirn ſꝏ hinn micli er þar ſtenþr, sie yfer dis Þórálfs. Þórir hittir Armann, ſeiger hanom tijþindinn, oc beidiz af hanom ſtyrks til favþrhefnþa, illa foor Þórálfr at luta Synoin oc var von ad hanom munþi bella, Oc vil ec þw lꝏter kirt vera, er Valþi illr vidrſciptis, enda haþþi hann retta ſoc oc ꝏtti epter ſijno at ſæcia, ſeig-

